ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST!

LIFI MARXISMINN-LENÍNISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands m-l   20. tbl. 5. arg. 1976

Verð 100 kr.

Í leiðara 19. tbl. er meinleg prentvilla á annari síðu, öðrum dálki. Þar stendur: " Hua var ekki valinn vegna þess að hann.... " en þar á að standa: " Hua var einmitt valinn vegna þess að hann....." og leiðréttist þetta hér. Við biðjum lesendur velvirðingar á þessum leiðu mistökum.

Ritnefnd.

**LEIÐARI:**

# Burt með flokkadrætti úr verkalýðshreyfingunni

Verkalýðshreyfing sem er sundruð er auðveldari viðfangs fyrir óvini hennar, þess vegna reyna þeir ætíð að sundra henni. Íslensk verkalýðshreyfing er sundruð og það er unnið skipulega að því að viðhalda þessari sundrungu í þágu íslenskrar borgarastéttar.

Nýlega birtust tvö skýr dæmi um starfsemi sundrungaraflanna innan verkalýðshreyfingarinnar. Annað dæmið er baráttan innan ASB, félags afgreiðslustúlkna í brauða- og mjólkurbúðum - hitt dæmið eru átökin innan Sjómannasambandsins. Í báðum tilvikum reyndu borgaralegir stjórnmálaflokkar að ota sínum tota þvert ofan í hagsmuni verkafólksins í viðkomandi samtökum. Innan ASB sigraði baráttustefna í kosningum til ASÍ-þingsins, þótt Alþýðubandalagið, sem gjarnan skreytir sig með heitinu "verkalýðsflokkur", beitti málgagni sínu gegn lista baráttukvennanna.

Í sjómannasambandinu hefur áratuga löng samtryggingarstjórn borgaralegra stjórnmálaflokka beðið hnekki fyrir baráttu starfandi sjómanna - og viðbrögðin hafa orðið bitur í Morgunblaðinu.

Það liggur í augum uppi hvert hagræði það er fyrir stjórnmálaflokkana sem nú verma sæti Alþingis að geta notað flokksþræði sína til að halda aftur af baráttu verkafólksins. Allar ríkisstjórnir, hvort sem þær eru kenndar við hægri eða vinstri stefnu, þjóna ráðandi stétt þessa lands. Þess vegna reyna þær ásamt stjórnarandstöðu hvers tima a allan hátt að sundra verkafólkinu eða etja því fram fyrir hagsmuni burgeisanna. Þegar borgaralegu verkalýðsflokkarnir eru í ríkisstjórn þá skreyta þeir sig gjarnan með titlinum "alþýðustjórn" eða "vinstristjórn", þannig reyna þeir að blekkja verkafólkið. Sjálfstæðisflokkurinn beitir hinum geysilega áróðursmætti sínum til stuðnings þeim ríkisstjórnum sem hann á aðild að og fullyrðir að allar gerðir stjórnarinnar "taki mið af þjóðarheill." Niðurstaðan er ætíð sú sama - þegar harðnar á dalnum þá er það verkafólkið sem fær að borga reikninginn um leið og því er sagt að það hafi lifað um efni fram.

Hagsmunir verkalýðsins felast í því að sameinast um málefni stéttarinnar - að hefja merki stéttabaráttunnar til vegs. Þessir hagsmunir eru í algjörri andstöðu við starf og kenningar stéttasamvinnunnar. Innan baráttuglaðrar verkalýðshreyfingar er enginn staður fyrir þau öfl sem nú leika sér að því að sundra verkalýðnum. - og þess vegna ráðast þau svo heiftarlega gegn þeim sem hefja baráttumerkið á loft.

Verkalýðurinn á ekki að láta flokkapólitíkina sundra sér. Það er andstætt hagsmunum hans. Þess vegna er eitt af brýnni málum verkalýðshreyfingarinnar að losa sig við flokkadrættina innan hreyfingarinnar og sameina verkalýðinn til átaka þvert á öll flokksbönd og gegn vilja borgaralegu flokkanna.

12/11



Þessi mynd sýnir liðsmenn Al Fatah undirbúa árás inn yfir landamærin til Ísraels. Í dag á palestínska þjóðin í harðri baráttu fyrir tilverurétti sínum

## STÉTTABARÁTTAN RÆÐIR VIÐ DAOUD KALOTI - SENDIMANN PLO Á NORÐURLÖNDUM

# Eflum stuðning við baráttu PLO!

Eftirfarandi viðtal við sendifulltrúa PLO í Skandinavíu, Daoud Kaloti, var tekið af blaðamanni Stéttabaráttunnar, í Stokkhólmi í nóvemberbyrjun.

Eftir hina heiftugu bardaga í Líbanon í sumar og haust, og sérlega eftir fall Tel al Zaatar, hefur fréttaflutningur borgaralegu fjölmiðlanna af styrjöldinni mjög skroppið saman. Það er því eðlilegt að spyrja fyrst hvernig ástandið sé í Líbanon núna.

Eftir hina mannskæðu styrjöld sem geysaði í sumar og haust, sagði Daoud Kaloti, hefur verið nokkurt lát á bardögum undanfarið. Vopnahléð frá 16. okt. hefur verið virt að mestu leiti, en fasistarnir gera enn árásir á okkur öðru hvoru.

Sýrlendingar hafa séð að þeir geta ekki unnið neinn hernaðarsigur í Líbanon, þess vegna hafa þeir nú snúið við blaðinu með þáttöku í friðarumleitunum og dregið úr hernaðaraðgerðum. En við vitum að þeir hafa einungis breytt um aðferð, takmark þeirra er ennþá að eyðileggja palestínsku byltinguna. Í stað yfirlýstra árása ætla þeir að grípa til allskyns baktjaldaaðgerða. Þeir munu reyna að eyðileggja hreyfinguna innanfrá, ota sínum mönnum fram og sá og auka á úlfúð og illdeilur milli palestína, þeir hafa einnig í hyggju að reyna að myrða helstu leiðtoga okkar, og þeir munu reyna allt annað til að kæfa palestínsku byltinguna. Assad sýrlandsforseti hefur nefnilega ekki hug á að reyna að sölsa hreyfingu palestínumanna undir sig, heldur ætlar hann að eyðileggja hana algjörlega. En sýrlendingar hafa orðið fyrir gífurlegu tapi, bæði mannafla og hergagna, á innrásinni í Líbanon. Þess vegna hafa þeir orðið að breyta um vinnubrögð.

Í Líbanon sameinast þessi fjögur öfl, líbönsku fasistarnir og afturhaldsseggirnir, Sýrland, bandaríksa heimsvaldastefnan og ísraelski zionisminn. Þessi öfl sameinast í vörnum fjandskap sínum við palestínsku byltinguna. Þau vilja brjóta hana niður og eyðileggja algjörlega, en ekki nóg með það, þau ætla sér að gera palestínsku þjóðina að engu! Þeim sem tekst að lifa af fjöldamorðin í flóttamannabúðunum á að tvístra um allan arabaheiminn þannig að palestínska þjóðin hætti að vera til!

Það ætti því að vera auðskilið að við bárum ekki vopn í Líbanon til þess að sölsa undir okkur landið, heldur til að verja sjálfa okkur og til að barjast gegn heimsvaldastefnu Bandaríkjanna og zionískri heimsvaldastefnu Ísraels.

Við gátum auðvitað ekki horft upp á að bandamenn okkar, líbönsku þjóðernissinnarnir, yrðu gersigraðir í borgarastyrjöldinni. Það var beinlínis spurning um líf eða dauða okkar sjálfra! Það var um að ræða réttláta baráttu þjóðar okkar fyrir réttinum að mynda sjálfstætt óháð og lýðræðislegt Palestínuríki, þar sem fólk af öllum trúarbrögðum og kynþáttum lifi saman í frið og réttlæti. Það er þessi barátta sem er í húfi í Líbanon.

Framhald á bls 4

# Fjöldabarátta námsmanna

Undanfarið hafa farið fram víðtaækar aðgerðir í framhaldsskólum landsins gegn kjaraskerðingum ríkisvaldsins á hendur námsmönnum. Hafa nemendur margra skóla farið í setuverkföll, sent frá sér mótmælabréf og sýnt andstöðu sína á ýmsan annan hátt. Þann 9. nóvember fjölmenntu svo meira en 3000 námsmenn á Austurvöll til að leggja áherslu á mótmæli sín gagnvert skertum lánakjörum og svívirðulegum úthlutunarreglum Lánasjóðs íslenskra námsmanna. Fundurinn var glæsilegt dæmi um samstöðu námsfólks og vilja þess til að baráttan gegn ólögum ríkisvaldsins fari fram á fjöldagrundvelli en ekki í baktjaldamakki einstakra forystumanna. Þessum fjöldaaðgerðum hefur síðan verið fylgt eftir með kröfugöngu þeirra námsmanna sem hafa börn á framfæri sínu og "heimsókn" hundruða námsmanna í Menntamálaráðuneytið.

Auk þessa hefur verið stofnuð Baráttuhreyfing námsmanna sem nær til flestra framhaldsskólanna. Hreyfing þessi sem byggir á baráttustefnu í málefnum námsmanna hefur þegar gefið ú blað "Námsmannablaðið" og stendur fyrir stofnun baráttuhópa í framhaldsskólunum.

En hverjar eru helstu kröfur námsmanna ?

Fyrst og fremst mótmæla þeir nýsettum úthlutunarreglum lánasjóðains þar sem ekkert tillit er tekið til aukins framfærsluþunga barnafólks, nema hjá einstæðum foreldrum. Auk þess er þar ekkert tillit tekið til framfærslu maka s.s. vegna veikinda, atvinnuleysis eða fjölskyldustærðar eins og verið hefur, en hinsvegar er fullt tillit tekið til tekna makans.

Auk þessa krefjast námsmenn að þeir bekkir lista- og verkmenntunarskóla sem enn standa fyrir utan námslánakerfið fái rétt til lána.

Fundurinn 9. nóvember var glæsileg byrjun. En námsmenn mega ekki láta undan síga nú eins og í fyrra þegar fáeinum broddum upp í Háskóla tókst að kæfa fjöldabaráttuna í fæðingu. Námsmenn verða að hefja til vegs baráttustefnuna í öllum samskiptum sínum við ríkisvaldið.

mvs/-

Stéttabaráttan 20. tbl
5. árg. 16/11. 1976.

Útg.: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
STÉTTABARÁTTAN kemur út hálfsmánaðarlega.
Póstfang: Pósthólf 1357, Rvík.
Sími: 27810.
Ritstj. & ábm: Ólafur Ingólfsson
Gíró: 27810.

# Of mikil vinnuskylda kennara

Á Íslandi eru börn nú skólaskyld upp til 15 ára aldurs og flest byrja þau 6 ára í skóla. Flest eru þau 9 ár í skóla, 8-9 mánuði á ári. Ég hefi ekki handbærar tölur um hversu mörg börn eru á þessum aldri en þau skipta sennilega tugþúsundum og fer sífellt fjölgandi. Á þessum aldri fer fram gríðarlega mikil félagsleg mótun þessara barna og unglinga. Skólinn ber þunga ábyrgð og veltur það á miklu að vel sé að börnunum búið á þessu viðkvæma æviskeiði.

Er sú hins vegar raunin á?

Það er afar misjafnt. Margir nýir skólar hafa verið byggðir á undanförnum árum og gamlir stækkaðir til að bæta úr brýnni þörf vegna fjölgunar barna. Víða eru skólar þó tví- og þrísetnir. Þeirrar tilhneigingar gætir hjá mörgum skólamönnum að telja að flest eða öll vandamál skólanna stafi af húsnæðisleysi. Húsnæðisskorturinn eykur vissulega á vandann í skipulagningu starfsins, það verður mun erfiðara að skipuleggja samfelldan og skynsamlegan vinnudag þegar 2 bekkir þurfa að vera um sömu stofuna. En víða vantar þó það sem skiptir meira máli, viljann til að aðhæfa skólann börnunum. Með viljann að vopni er hægt að sigrast á húsnæðisskortinum. Margir muna enn þá eftir gömlu farskólunum sem reyndar eru ekki með öllu útdauðir. Þeir urðu að notast við fátækleg húsakynni en veittu þó mörgu sveitabarninu talsverða menntun og hana síst haldminni en 9 ára skólar veita nú.

Eitt stærsta vandamálið er að mínu mati of mikil vinnuskylda barnakennara sem bitnar á börnunum á einhvern hátt. Til skamms tíma var kennsluskylda barnakennara 36 stundir á viku en lækkaði nýlega í 34. Kennarar í fullu starfi hafa því yfirleitt umsjón með 2 bekkjum, öðrum fyrir hádegi og hinum eftir hádegi. Í bekk eru oft nálega 30 börn þannig að kennarinn þarf að hafa umsjón með 50-60 börnum. Umsjónin felst í því að færa allar bækur, í spjaldskrár og þar fram eftir götunum halda uppi einhverju sambandi við heimilin og sitthvað fleira. Ég held að það sé augljóst að enginn maður getur haft nokkurt samband til gagns við svona mörg heimili og foreldra. Helsta samskiptatækið er foreldradagur, oftast aðeins einu sinni á vetri. Þar hefur kennarinn 5-10 mínútur til að tala við hverja móður (því að oftast koma þær en ekki feðurnir). Á öðrum tímum er sambandið stopult. Mörg eiga við ýmis vandamál að etja, bæði í skólanum og heima hjá sér. Oft er tekið skakkt og of seint á þeim vandamálum, foreldrarnir vinna e.t.v. bæði úti og kennarinn kemst ekki yfir að sinna vandamálinu. Eigi hann að komast yfir það neyðist hann til að vanrækja eigin fjölskyldu. Þetta er fremur nöturlegt en þó engan veginn úr lausu lofti gripið að fullyrða þetta.

Ég tel brýna nauðsyn á að málum verði þannig fyrir komið að kennurunum sé kleift að fórna meiri tíma fyrir börnin. Minnka þarf vinnuskyldu kennara töluvert frá því sem nú er og rétt er einnig að fækka í bekkjum.

ing/-

# ÞINGMANNAVAÐALL

Nú fyrir skömmu var fluttur í útvarpi nokkuð athuglisverður þáttur sem Vinnumál nefnist, en þar útskýrði Matthías fyrir undirtyllum sínum þeim Arnmundi og Ingólfi hvers vegna hann hefði framið stjórnarskrárbrotið þann 6. september síðastliðinn. Ingólfur átti að vera til andsvara, en ekki fórst honum það betur úr hendi en þegar hann fjallaði um ufsaverðið forðum og verður að segjast að þar hitti skrattinn Ingólfur fyrir ömmu sína. Ýmislegt kom þó fram í þættinum sem fróðlegt var að heyra. Má þar nefna meðal annars orð þau sem Matthíast viðhafði um undirskriftarsöfnun sjómanna. Þar tók hann sem helsta dæmi það að skólabörn væru að safna á listana í barnaskólum. Ekki veit ég hvaðan Matthías hefur fengið þessa tilgátu en sennilegast þykir mér að hér hafi hann talið að sjómenn notuðu sömu aðferðir við söfnunina og notuð var á vegum Varins lands h/f. Eitt fladdi mig að heyra af vörum Matta en það var þegar hann tilkynnti að aðgerðir vestfirskra sjómanna hefðu verið í samræmi við bráðabirgðalögin. Þá vitum við það. Því samkvæmt þessu megum við fara í verkfall þrátt fyrir ákvæði bráðabirgðalaganna um bann við verkföllum. Í framhaldi af þessu má geta þess sem Matti sagði: "Bráðabirgðalögin eru sett til að jafna skiptaprósentuna um land allt". Það er nú það. Sá jöfnuður er samkvæmt orðum ráðherrans fólginn í því að nú eftir setningu bráðabirgðalaganna eru dæmi þess, að á einum línubát er skiptaprósentan 28,5%, en á þeim næsta 32%. Einkennilegar eru röksemdafærslur Matthíasar svo ekki sé



meira sagt. Sýnir þetta enn betur en nokkuð annað í hverra þágur hann situr í ráðherrastólnum.

Viðbúið er að í næstu Alþingiskosningum missi íhaldið annan vestfjarðaþingmann sinn. Því miður verður það ekki Matthías bóksali.

Gaman væri að geta þáttar annars íhaldsþingmanns vegna bráðabirgðalaganna. Sá telur sjálfan sig vera sjómann á Sjómannadaginn og brosir þá blítt til allra átta. Þess á millum er hann alþingismaður og keppist við að berjast gegn hagsmunum sjómanna bæði á þingi og í stjórnum Sjómannafélags Reykjavíkur og Sjómannadagsráði. Hefur þessi tvískinnungur hans valdið því að menn hafa afneitað honum innan Sjómannasambandsins og nú er spurningin hvenær hann missir ítökin í stjórn Sjómannafélags Reykjavíkur og Sjómannadagsráði. Hvað þingsætið góða varðar þurfa menn vart að óttast það að rassinn á Pétri Sigurðssyni haldi því heitu eftir næstu kosningar.

Nú fyrir skömmu birtist viðtal við hann í Moggasnepli þar sem hann æsir sig mjög yfir því hvað kommúnistar séu nú vondir kallar að vilja ekki njóta hans ómældu starfsgetu lengur innan Sjómannasambands Íslands. Getur hann þar sérstaklega þáttar Jósefs Kristjánssonar, en hann átti heiðurinn af því að æsingaræður Péturs á Sjómannasambandsþinginu eru til á spólu sjómönnum til viðvörunar.

Einnig telur Pétur það örgustu ókurteisi að þingfulltrúar hafi ekki þegið að mæta í fylleri hjá Matthíasi sem nýlega var búinn að ráðast svo heiftarlega gegn sjómönnum og raun ber vitni. Pétur hugsar að sjálfsögðu ekkert út í það að með því að mæta hjá ráðherra móðgaði hann alla starfandi sjómenn.

Í lok viðtalsins klykkir Pétur því svo út að árás Matthíasar á sjómenn hafi verið nauðsyn og að mörg sjómannafélög hafi stutt bráðabirgðalögin frá 6. sept. s.l.

Af þessu tvennu, útvarpsviðtali Matthíasar og Moggaviðtali Péturs vakna ýmsar spurningar og að ýmsu verða sjómenn fróðari eftir að útgerðarauðvaldið hefur afhjúpað sig svo berlega sem viðtölin sýna. Þannig væri fróðlegt að vita hvort bóksali og smáborgari telur sig hafa næga þekkingu á málum sjómanna til þess að geta ákveðið kaup þeirra og kjör með lögum og þá meiri þekkingu en stéttarfélög sjómanna. Einnig væri gaman að vita hvaða sjómannafélög hafa farið fram á það við Matthías að hann setti bráðabirgðalögin. Það liði þá eflaust ekki á löngu áður en þar yrði skipt um stjórnendur og fulltrúar sjómanna settir inn í staðinn.

KGK/-

# Öryggismál á vinnustöðum

Það skiptir miklu máli fyrir líf og heilsu verkafólks að ástand atvinnutækjanna sem það vinnur við sé gott. Maður skyldi ætla að svo væri, því starfandi er öryggiseftirlit á vegum ríkisins með tveim föstum starfsmönnum. Þeir eiga að fylgjast með ástandi atvinnutækjanna og gera kröfur um lagfæringar sé í einhverju ábótavant.

En ég hef aðra sögu að segja í þessum málum. Á mínum vinnustað er mikið um stórvirkar vinnuvélar í mjög slæmu ásigkomulagi. Þar eru stórir kranar, belta- og hjólgröfur með stjórntæki sem virka seint og illa, fyrir utan að mörg þessara tækja eru bremsulaus, ljóslaus, flautulaus. Þetta er mjög hættulegt, því margir verkamenn vinna allt í kringum þessi tæki. Mörg minniháttar slys hafa átt sér stað og má kenna aðbúnaðinum á vinnusvæðinu beint um og ástandi vinnuvélanna.

Þrátt fyrir að ástandið á vinnustaðnum væri eins og ég hef nú lýst, kom fulltrúi öryggiseftirlitsins á vinnustaðinn og gerði engar athugasemdir. Hann lagði embættisblessun sína yfir vinnustaðinn og setti skoðunarmiða á vinnuvélarnar, án skoðunar. Nú skyldi maður ætla að hér væri um alvarleg embættisafglöp að ræða, sem væru einstök í sinni röð.

En ég og mínir vinnufélagar hafa það fyrir satt að þannig sé þessu einnig farið á flestum öðrum vinnustöðum. Unnið er á tækjum sem eru stórhættuleg og ef að verkamenn kvarta er þeim sagt að nóg sé af mannskap til að taka við af þeim. Þegar kvartað er til verkalýðsfélagsins er ekkert gert í málinu. Það er svar forystunnar þegar troðið er á rétti verkamannanna.

Þegar verkamenn kvarta til öryggiseftirlitsins, koma starfsmenn þess með vinsamleg tilmæli til atvinnurekandans um lagfæringu. Þá er málinu lokið frá þeirra hendi. Þeir hafa ekki vald til að stöðva vinnutæki sem eru í ófæru standi og gæti það eftilvill valdið dauðaslysi á morgun.

Þess vegna er það krafa verkafólks að komið sé á laggirnar öryggiseftirliti sem skríður ekki fyrir atvinnurekendum, heldur gengur hart fram fyrir rétti verkafólks.

-/bsk



## HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?

Miðstjórn: Pósthólf 1357 Reykjavík, einnig í síma 27810.
Ritstjórn Stéttabaráttunnar og Rauða fánans: Pósthólf 1357, sími 27810 á opnunartíma Rauðu stjörnunnar, Lindargötu 15.
Akureyri: Nanna Rögnvaldsdóttir, Byggðavegi 88
Suðurnes: Jónas H Jónsson, Holtsgötu 26 Njarðvík, sími 2641
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjavíkurvegi 24
Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson, Hellisbraut 10 Hellissandi.
Ísafjörður: Kristinn Karlsson, Fjarðarstræti 7

# Þing Rauðsokka

Annað þing Rauðsokkahreyfingarinnar var haldið í Reykjavík dagan 23. - 24. okt. Um 30 manns sátu þingið og tóku flestir virkan þátt í umræðunum. Þinginu var fyrst og fremst ætl að að marka skýrari stefnugrundvöll fyrir hreyfinguna, þ.e. gera nauðsynlegar breytingar á stefnuskránni sem gerð var á Skógum 1974. Þá voru vígorðin "Jafnréttisbarátta = stéttabarátta" fyrst sett í grundvöllinn og hreyfingin lýsir því yfir að hún sé sósíalísk.

Þingið nú ræddi einnig skipulag Rauðsokkahreyfingarinnar og komst að niðurstöðu sem miðar að því að skipuleggja hreyfinguna betur til markviss starfs að baráttumálum kvenna, en áður skorti mjög á í þessum efnum.

Yfirskrift stefnugrundvallarins er: "Jafnréttisbarátta er stéttabarátta." M.a. segir að fullkomnu jafnrétti verði ekki náð í auðvaldsþjóðfélaginu og að jafnréttisbaráttan sé hluti þeirrar baráttu, sem verði að heyja fyrir nýju samfélagi þar sem arðrán og hvers konar kúgun verði afnumin.

Síðan er fjallað um stöðu konunnar í atvinnulífinu, stöðu konunnar á heimilum og hvernig ríkisvaldið sinnir ekki þeirri réttmætu þjónustu við heimilin sem aukin atvinnuþátttaka kvenna á vinnumarkaðnum heimtir, sbr. tilhögun dagvistunar- og skólamála, barnsburð-



arleyfi o.fl. Rauðsokkahreyfingin lítur m.a. á það sem hlutverk sitt að starfa með verkalýðshreyfingunni og öðrum að sameiginlegum markmiðum, að berjast gegn því að fólki sé mismunað vegna kynferðis síns, að efla sjálfsvitund, félagsþroska og baráttuvilja kvenna og lýsir yfir stuðningi við baráttu kvenna um heim allan gegn kúgun og afturhaldi.

Meðal þeirra krafna sem Rauðsokkahreyfingin leggur upp sem grundvallarkröfur til að berjast fyrir eru:

1. Lífvænleg laun fyrir átta stunda vinnudag.
2. Full atvinna fyrir alla.
3. Atvinnuöryggi fyrir alla.
4. Jöfn laun fyrir sambærilega vinnu.
5. Sami réttur til allrar vinnu.
6. Jafnrétti til náms.
8. Góðar og ókeypis dagvistunarstofnanir.

# Samþykktir þings Sjómannasambandsins

Á nýloknu Sjómannasambandsþingi voru samþykktar margar ályktanir sem varða aðbúnað og kjör sjómanna og endurreisn samtaka þeirra. Er kjaramálaályktun þingsins birt í heild annars staðar í blaðinu. Þingið beindi þeirri áskorun til félaga sem enn standa utan Sjómannasambandsins en eiga fyllsta rétt til að vera þar, að sækja nú þegar um inngöngu í SSÍ. Sums staðar úti á landi eru engin sjómannafélög starfandi heldur aðeins sjómannadeildir innan verkalýðsfélaganna á staðnum. Gefur það auga leið að það veikir mjög heildarsamtök sjómanna að hluti starfandi sjómanna stendur algerlega utan við þau. Einnig samþykkti þingið að kjósa þriggja manna nefnd til viðræðna við Farmanna og fiskimannasamband Íslands um aukið samstarf milli sambandanna. Á tímum eins og nú, þegar útgerðarmenn og ríkisvaldið þjarma að sjómönnum og svifta þá réttindum sínum, er öllum sjómönnum nauðsyn á að standa saman í baráttunni en láta ekki sundrunguna í eigin röðum verða vopn í hendi stéttaróvinarins. Í ályktun frá þinginu var einnig varað við þeirri fækkun í áhöfnum skipanna og mjög aukins vinnuálags á sjómenn. Léleg kjör til sjós hafa valdið því að erfitt hefur verið fyrir útgerðarmenn að manna skipin. Því hefur í vaxandi mæli verið gripið til þess að brjóta mönnunarákvæði kjarasamninga og fækka í áhöfnum. Þau eru ófá slysin sem gerst hafa og mannslífin sem fórnað hefur verið vegna of lítilla áhafna. Skoraði þingið því á öll stéttarfélög sjómanna að standa vörð um mönnunarákvæði kjarasamninganna.

## Kjaramálaályktun SSÍ

10. þing Sjómannasambands Íslands bendir á þá alvarlegu staðreynd, að kaup og kjör íslenskra sjómanna eru í dag langt fyrir neðan það mark að viðunandi geti talist og mun kaup sjómanna almennt ekki vera mikið yfir 60% af því kaupi, sem margir starfshópar í landi hafa fyrir sambærilegan vinnutíma. Hér verður því að verða stórbreyting á, ef hægt á að vera að manna fiski- og fragtskipaflotann góðum og vönum starfskröftum.

Vinnutími sjómanna, fjarvera þeirra frá heimilum sínum langtímum saman, ófullnægjandi aðbúnaður aðkomumanna í mörgum verstöðvum ásamt fleiri atriðum skjóta sterkum stoðum undir kröfuna um stórbætt launakjör og aðbúnað íslenskra sjómanna.

Hlutaskiptaprósenta á fiskiskipum þarf að hækka um 3-5% eftir því, hvaða veiðar fiskimenn stunda. Algerlega frítt fæði um borð eiga sjómenn fiskiskipa að hafa, eins og sjómenn á stærri togurunum og allir þeir sem vinnu stunda fjarri heimilum sínum við stórframkvæmdir. Kauptrygging sjómanna þarf að hækka um minnst 20%.

Þá verður það að vera höfuðkrafa þingsins að fullnaðaruppgjör fari fram í lok hvers úthaldsmánaðar, svo tryggt verði að góður aflahlutur eins mánaðar hverfi ekki til jöfnunargreiðslu á kaupi næsta mánaðar, þó aflaminni sé.

Þá bendir þingið á að í næstu samningum verði lögð áhersla á að samið verði sér fyrir fiskimenn er vinna á loðnubátum á sumarvertíð, og þá með það sérstaklega í huga að þeir fái löndunarfrí og hafnarfrí.



Þingið telur góða samstöðu sjómannafélaganna í landinu undirstöðu að árangri kjarabaráttunnar, og í því sambandi mikið atriði að þau félög, sem sameiginlega undirskrifa niðurstöðu samninga hafi sameiginlega atkvæðagreiðslu og fylgist að um boðun og afboðun vinnustöðvana.

Þá beinir þingið því til sambandsfélaga að þau fylgist vel með að samningar þeirra séu ekki brotnir, og að öll sérákvæði í samningum þeirra verði ekki frá þeim tekin sem þegar eru komin inní samninga og félög hafi rétt, sem hingað til, að gera sérsamning..

Þingið telur að niðurstaðan úr uppstokkun sjóðakerfisins hafi valdið sjómönnum verulegum vonbrigðum, þar sem ljóst er að breytingin hefur að meginhluta farið til útgerðarmanna en allt of lítið til sjómanna.

Þingið heitir á starfandi sjómenn um land allt að taka virkan þátt í kjarabaráttu stéttar sinnar og skipa sér fast að baki forystu Sjómannasambandsins í átökum þeim, sem óhjákvæmilega hljóta að vera framundan.

Þá fordæmir þingið harðlega bráðabirgðalögin frá 6. september s.l. um kaup og kjör sjómanna.

Þessi lög eru svívirðileg og siðlaus árás pólitísks valds á sjómannastéttina, án allra ástæðna, þar sem ekkert lá fyrir um vinnustöðvanir.

Sjómenn höfðu sýnt þá miklu þjóðhollustu að vinna án fastra samninga í marga mánuði til að draga björg í þjóðarbúið og forða mörgum sjávarplássum frá mjög alvarlegu ástandi, sem er atvinnuleysið, en svarið við þessari þjóðhollustu þeirra voru lögin, helgasti réttur hverrar vinnustéttar er af þeim tekinn og kaup og kjör þeirra bundin með lögum, öðrum deiluaðilanum í vil.

Svona siðlaus valdníðsla vofir sem skuggi yfir öllum launþegum þessa lands, því alltaf má endurtaka ósómann.

Þingið varar nú allar launastéttir við þessari hættu, og skorar á alla vinnandi menn innan heildarsamtakanna, hvar í flokki sem þeir eru, að standa traustan vörð um stéttarfélög sín til að verja rétt þeirra og spyrna á móti að svona nokkuð verði nokkurntíma reynt til að svívirða íslenska launþega hvorki á sjó né landi.

# Fréttatilkynning frá Skólafélagi Vélskóla Íslands

Reykjavík 7. október 1976.

Eftirfarandi tillaga var samþykkt einróma á almennum fundi nemenda í Vélskóla Íslands:

Almennur fundur nemenda í Vélskóla Íslands, haldinn fimmtudaginn 7. október 1976, lýsir yfir hörðustu andstöðu sinni við þá ákvörðun stjórnvalds að afnema verkfallsrétt sjómanna og lítur svo á að hér sé um að ræða aðför að frjálsum samningsrétti vinnandi fólks í landinu.

Jafnframt lýsir fundurinn yfir fyllsta stuðningi sínum við baráttu sjómanna fyrir afnámi bráðabirgðalaganna frá 6. sept. síðastliðnum og skorar á allt vinnandi fólk að styðja baráttu þeirra gegn þeirri valdníðslu sem þeir hafa verið beittir af stjórnvöldum þessa lands.

Virðingarfyllst stjórn SVÍR.

# KAMBÓDÍA

## TREYSTUM A EIGIN KRAFTA

Nú er uppskerutími í Kambódíu. Vinnan er nú léttari en í fyrra, verksmiðjurnar eru nú komnar í fullan gang við að framleiða landbúnaðartæki og verkfæri. M.a. hafa fyrstu dælurnar við áveituskurðina verið teknar í notkun. Í fyrsta sinn í 800 ár, eða síðan á tímum hins forna Angkor-ríkis, geta kambódískir bændur skorið tvær uppskerur á einu ári. Eftir valdatöku alþýðunnar og sigurinn yfir heimsvaldastefnunni, hefur hin forna ræktunartækni verið endurvakin og þróuð áfram í samræmi við nútíma tækniþekkingu.

### Hungrinu bægt frá dyrum.

Kambódíumenn eru nú þegar sjálfum sér nógir með matvæli. Í verksmiðjunum er unnið allan sólarhringinn, á vöktum. Landbúnaðartaæki og heimilisáhöld hafa forgang í iðnaðinum.

Allar eignir í Kambódíu, fyrir utan daglegar heimilisnauðsynjar, eru nú í eign ríkisins eða samyrkjueininganna. Alls eru samyrkjueiningarnar í landinu nú 30 þús. Engin laun eru greidd í peningum. Allir taka þátt í samyrkjunni og fá það sem þeir þurfa á samfélagslegan hátt.

Í höfuðstaðnum Phnom Penh búa nú rúmlega 100 þús. manns. Flóttamannfjöldinn sem var í borginni við frelsunina vorið 1975 hefur nú fengið aðsetur og viðurværi úti á landsbyggðinni. Kambódía mun ekki í framtíðinni verða eins og nú, því sem næst án borga. Ætlunin er að byggja upp smærri þéttbýlisstaði um allt landið, sem eiga að þjóna landsbyggðinni, en ekki að mergsjúga og arðræna sveitirnar eins og borgirnar gerðu áður fyrr.

5 ára árásarstríð heimsvaldasinnanna olli gífurlegri eyðileggingu. Lítum á nokkrar tölur:

- 800.000 manns fallnir
- 240.000 manns örkumla
- meira en 80% af öllum verksmiðjum, plantekrum, hrísgrjónaökrum, vegum og brúm í námunda við vígstöðvar eyðilögðust.
- 90% af borgum og bæjum nærri vígstöðvum eyðilögðust, 50% af bæjum og borgum sem fjær lágu.

Þrátt fyrir þetta eru kambódíumenn staðráðnir að endurreisa landið af eigin rammleik. Af rótum vanþróaðs landbúnaðarlands skal spretta nútímalegt landbúnaðarland, og af því síðan þróað iðnríki. Kambódíumenn kjósa að treysta fyrst og fremst á eigin krafta, en ekki á erlenda aðstoð. Þetta hefur gert sovésku sósíalheimsvaldasinnana ævareiða. Kjörorðið um að treysta á eigin krafta stimpla þeir sem andsósíalískt.

# Riki verkamanna og bœnda

Forystuafl alþýðunnar í dag er byltingarhreyfingin Angkar, sem á tímum stríðsins var leiðandi aðili í þjóðfrelsishreyfingunni FUNK. Æðsta valds landsins er alþýðuþingið, sem kosið er á 5 ára fresti. Á því eiga sæti 150 fulltrúar bændastéttarinnar, 50 fulltrúar verkalýðsstéttarinnar og 50 fulltrúar alþýðuhersins. Stjórnarskráin kveður á um að þingfulltrúarnir skuli vera starfandi bændur, verkamenn eða hermenn.

Hin nýja Kambódía á samleið og sýnir samstöðu með ríkjum þriðja heimsins og sósíalísku ríkjunum, gegn heimsvaldastefnu og nýlendustefnu. Þannig hafa kambódíumenn aðstoðað Laosbúa, nágranna sína og vopnabræður í baráttunni gegn heimsvaldastefnunni, með stórum hrísgrjónasendingum. Á alþjóðavettvangi hefur Kambódía t.d. á hafréttarráðstefnunni snúist gegn tillögum risaveldanna um "frjálsar siglingar á heimshöfunum".

Nýlega voru 6 götur í Phnom Penh nefndar eftir hinum bandarísku stúdentum við Kent-háskólann í Ohio, sem drepnir voru við mótmælaaðgerðir þar gegn innrásinni í Kambódíu 1970. Þetta sýnir þakklæti kambódíumanna vegna stuðnings alþýðu annarra landa.

# Lygar afhjúpaðar

Síðastliðið vor birtust víða í borgaralegum blöðum ógeðfelldar hryllingsmyndir sem áttu að sanna tilveru "hryðjuverkaanna í Kambódíu". Nú hefur verið sannað á óyggjandi hátt, að allar myndirnar voru falsaðar af leyniþjónustu Thailands, ætlaðar til þess að hræða fólk frá að kjósa sósíalíska flokka í kosningunum þar vor.

Það var bandarískt blað, US/Indochina Report sem afhjúpaði falsanirnar. Blaðið er gefið út af Indochina Research Center í Washington.

Myndirnar birtust fyrst í thailenska blaðinu Thai Rath þann 2. apríl, aðeins tveim dögum fyrir kosningarnar. Við athugun fundust strax merki um að myndirnar færu falsaðar, t.d. klæðnaður þeirra bænda og hermanna sem myndirnar áttu að sýna.

Nokkru seinna átti blaðið Bangkok Post viðtal við foringja í thailensku leyniþjónustunni sem sagði að myndirnar væru teknar í Thailandi. "Aðeins ég og ljósmyndarinn áttu að vita þetta", sagði hann við blaðamann Bangkok Post.

Fyrst og fremst vegna þess að Kambódíumenn hafa sýnt og sannað að smáþjóð getur sjálf leyst sig úr ánauð verða þeir fyrir hatursfulla áróðursherferð borgaralegra fjölmiðla. Að baki þessa síðasta áróðurstilræðis þykjast menn greina skugga njósnastofnunar Bandaríkjanna, CIA. Eftir ósigurinn í Indókína reyna flugumenn CIA að halda þrælataki sínu á Thailandi. Það er ólíklegt að CIA hafi haldið að sér höndum í valdaráni hersins í Thailandi í síðasta mánuði.




## SVÍÞJÓÐ: FASISTA VEITT NÓBELSVERÐLAUN.

Nóbelsverðlaun í hagfræði í ár voru veitt Chicagoprofessornum Milton Friedman. Hann fékk þau fyrir kenningar sínar um "gjaldmiðlahagstjórn" eða eitthvað í þá veruna. Friedman þessi er í dag efnahagsráðunautur herforingjastjórnarinnar í Chile og Brasiliu, og hann ber að nokkru ábyrgð á þeirri gegndarlausu arðránsstefnu sem þessi ríki reka. Fasískt ofbeldi og kúgun á verkalýðnum fer vel að kenningum Friedmans sem álítur peninga vera skapandi afl sögunnar, og órói á vinnumarkaði, verkföll og þvíumlíkt er því óæskileg.

## PÓLLAND: MÓTMÆLI GEGN FANGELSUNUNUM BÁRU ÁRANGUR.

Nokkrir verkamannanna sem voru dæmdir fyrir þáttöku í mótmælaaðgerðum gegn verðhækkunum stjórnarinnar, hafa nú fengið dóma sína mildaða vegna hinna gífurlega mótmæla sem risu upp jafnt innanlands sem utan. Þegar þeir voru dæmdir var stofnuð í Póllandi "Stuðningsnefnd við dæmdu verkamennina sem hafa orðið að sæta ofsóknum fyrir þáttöku í mótmælaaðgerðunum í júní." Nefndin gekkst fyrir aðgerðum til stuðnings verkamönnunum og gaf út yfirlýsingu þar sem ofsóknirnar voru fordæmdar, og alþýðan hvött til aukinnar baráttu fyrir lýðréttindum, og fordæmd sú þróun að verkalýðsfélögin séu orðin tæki í höndum ríkisvaldsins til að kúga verkalýðinn

Ríkisstjórnin hefur hafið ofsóknir á hendur þeim sem taka þátt í störfum nefndarinnar. Menn hafa verið kallaðir í herinn, kennurum verið bannað að kenna og rithöfundar sem stutt hafa nefndina fá ekki að gefa út bækur. En barátta nefndarinnar fékk því áorkað að sjö verkamenn sem fengið höfðu frá 3-7 ára fangelsi voru mildaðir og dómunum breitt í lárs skylorðsbundið fangelsi. Það er ekki vitað hve margir aðrir sitja í fangelsum vegna þessa máls.

FRAMHALD AF FORSÍÐU

# Eflum stuðning við baráttu PLO!

Afturhaldsöfl arabaríkjanna, með Assad Sýrlandsforseta í fararbroddi, reyna eftir megni að koma í veg fyrir virkan stuðning arabískrar alþýðu við palestínumenn. Þau hafa reynt að koma í veg fyrir fjársafnanir PLO og reynt á allan hátt að hindra það að boðskapur okkar berist til verkalýðs og alþýðu arabalanda.

Það er mikið talað núorðið um hina s.k. nýju efnahagsskipan í heiminum. Það þýðir að ríki og þjóðir þriðja heimsins krefjast réttar yfir auðlindum sínum og jafnréttis á við löndfyrsta og annars heimsins. Það verður að hafa í huga að miðausturlönd eru einn af lyklunum að þessari nýju efnahagsskipan. Án gagngerra breytinga í miðausturlöndum er tómt mál að tala um nýja efnahagsskipan í heiminum. Þetta skilja þeir sem eru andstæðingar réttlátrar skiptingar auðæfanna, þess vegna eru þeir jafnframt svarnir fjandmenn palestínsku byltingarinnar!

Stb: Hver er þáttur Ísraels í styrjöldinni í Líbanon?

DK: Ísraelsmenn hafa alla tíð reynt að ýta undir andúð á palestínsku flóttamönnunum í Líbanon. Þeir studdu ljóst og leynt falangista fasistana þegar þeir hófu borgarastyrjöldina í Líbanon. Israelsku zionistarnir hafa síðan stöðugt aukið stuðning sinn við fasistana. Þeir eru nú með herlið í suðurhluta Líbanon og hafa lýst því yfir að þeir ætli með öllum ráðum að koma í veg fyrir að palestínumenn geti nokkurn tíma snúið þangað aftur. Zionistarnir fögnuðu innrás sýrlendinga í sumar, vegna þess að hún var þeim afar hagstæð, því þá neyddust palestínumenn til að verja líf sitt gegn Sýrlandi í stað þess að berjast gegn zionismanum.

Ísraelsmenn hafa séð sér mikinn hag í að kynda undir ástæðum í Líbanon, þannig ætla þeir að sýna og sanna áætlanir PLO um að mynda lýðræðislegt Palestínuríki séu dæmdar til að mistakast. Vegna þess að arabar geti ekki búið í friði með öðrum!

Fjölmiðlum vesturlanda hefur orðið tíðrætt um þá "mannúðarstefnu" Ísraels að opna landamærin við Líbanon. Zionistar gera það auðvitað ekki af neinum mannúðarástæðum, heldur af tvennu:

Í fyrsta lagi ætla þeir að reyna að vinna alþýðuna í suður Líbanon til fylgis við sig og til fjandskapar við palestínumenn, þessi stefna hefur ekki borið neinn árangur. Í öðru lagi vilja zionistarnir ná í ódýrt vinnuafl frá Líbanon, á samsvarandi hátt og Suður-Afríka gerir gagnvart sínum grönnum.



Stb: Hvaða áhrif hefur styrjöldin haft á samtök og samstöðu palestínumanna?

DK: Palestínsk alþýða hefur fylkt sér fastar um PLO. Allar tilraunir til að koma á klofningi innan samtaka palestínumanna hafa mistekist. Assad Sýrlandsforseti hélt sig hafa full yfirráð yfir þeirri hreyfingu sem aðsetur hafði í Sýrlandi, Saiqa, og skipaði þeim til árásar gegn bræðrum sínum í Líbanon. Í áróðrinum frá Damaskus er því nefnilega haldið fram að PLO hafi svikið palestínsku byltinguna og gangi erinda bandarísku heimsvaldastefnunnar og zionismans. En bræður okkar í Saiqa sáu í gegn um þessar lygar. Svo til allt herlið þeirra hefur gengið í lið með PLO ásamt fjölda hermanna úr her Sýrlands!

Stb: Að lokum, hvernig getum við best stutt baráttu palestínskrar alþýðu?

DK: Félagar okkar á Íslandi mega ekki halda að hættan sé liðin hjá þó að dregið hafi úr bardögum í Líbanon. Samsæri afturhaldsafla arabaríkjanna, bandarísku heimsvaldastefnunnar og zionismans gegn palestínskri alþýðu og byltingu hennar heldur áfram. Þau eru miskunnarlaus í fjandskap sínum og munu grípa til stöðugt verri aðferða. Palestínsk alþýða stendur frammi fyrir enn harðvítugri árásum á tilverurétt sinn heldur en hingað til. Þess vegna er svo mikilvægt að öflug stuðningshreyfing rísi upp um allan heim til stuðnings réttlátri baráttu palestínsku þjóðarinnar.

Stuðningurinn getur verið og þarf að vera í mörgu formi. Pólitískur stuðningur í öllum formum er afar mikilvægur, eins og einnig fjársafnanir til mannúðarstarfa á vegum Rauða hálfmánans og aðrar fjársafnanir fyrir palestínska alþýðu.

En mikilvægast er að stuðningurinn sé fullur og heilshugar fyrir PLO en ekki klofningsstuðningur til einhverra aðildar samtaka PLO. En jafnframt að andstæðingum okkar takist ekki að kljúfa stuðningsaðila okkar og ota þeim hver gegn öðrum. Barátta okkar er of mikilvæg til þess að við getum eytt tíma og kröftum í slíkan innbyrðis klofning.

ms/Stokkhólmi nóv.



## Angóla hersetið af sósíalheimsvaldasinnum

# Hyggur Sovét á frekari landvinninga?

Í apríl 1975 kom júgóslavneska flutningskipið Postoyna til Luanda, höfuðborgar Angóla. Skipið var fullhlaðið sovéskum vopnum. Viku seinna komu tvö júgóslavnesk skip, Jaldo og Mila Gojsalic, til viðbótar með sams konar varning. Í maí kom austur-þýska skipið Elbe ásamt átta sovéskum skipum - öll með vopn. Stuttu seinna komu 12 - 15.000 kúbanskir hermenn til Angóla og tóku til við að nota þessi vopn ásamt liðsmönnum MPLA-hreyfingarinnar.

Allir vita hvað gerðist síðan í grófum dráttum. En eftir að MPLA hafði ásamt málaliðunum frá Kúbu tekist að hrekja heri FNLA og UNITA á undanhald þá hafa fjölmiðla að mestu þagað um ástandið í landinu. Á tímabili var rætt um að Kastró hefði byrjað heimflutning hermanna sinna - en um framhald þeirrar sögu hefur lítið frést.

Angóla hefur nú komist í fréttir á nýjan leik - tvennt hefur þá komið í ljós. Í fyrsta lagi að enn eru mörg þúsund kúbanskra hermanna með sovésk vopn staðsettir í Angóla og í öðru lagi að bardögum þar er ekki lokið. UNITA, frelsishreyfingin sem var stofnuð 13. mars 1966 og barðist í tíu ár gegn portúgölsku nýlenduherjunum, berst enn og nú gegn hernámsliði sósíalheimsvaldasinnanna, kúbönsku málaliðunum.

Alþýða Angóla barðist ekki við portúgölsku nýlenduherrana í rúman áratug til þess eins að verða nýjum nýlenduherjum undirgefin. Þótt tímabundinn ósigur hafi orðið hlutskipti hennar þegar sósíalheimsvaldasinnunum tókst að koma af stað innanlandsstyrjöld þá hefur hún ekki sagt síðasta orðið. Barátta UNITA, undir forystu Jónasar Savimbi, er hluti af þessari baráttu gegn ítökum kremlherranna.

-/hh

## Rauður vettvangur

Frá Lesendum

# Hví lýgur Þjóðviljinn?

Hvers vegna lýgur Þjóðviljinn (þ.e. Árni Bergmann) upp allar CIA-lygarnar um Kambódíu og reynir að gera þær að "áreiðanlegum staðreyndum"?? Ég fór að velta þessari spurningu fyrir mér þegar ég las langhund Árna í sunnudagsblaði Þjóðviljans þann 10. okt. s.l.

Það er vitað meðal þeirra sem hafa fylgst með málefnum Kambódíu að ekkert land hefur verið atað slíku magni lyga í heimspressunni að undanförnu. Moggar heimsins hafa birt grein eftir grein um blóðbað og ógnarstjórn. Heimildirnar hafa verið fyrrverandi ráðamenn landsins og óprúttnir blaðamenn bandarískra blaða. Falsaðar ljósmyndir hafa verið notaðar til þess að gefa lygunum sannleiksblæ.

Gegn þessari herferð hafa andheimsvaldasinnuð blöð víða um heim (þ.á.m. Stéttabaráttan) beitt skrifum sem hafa sýnt fram á helstu lygarnar í auðvaldspressunni. En auðvitað mega þau sín lítils í dag gegn áróðursmagni borgarastéttarinnar. En hvers vegna kemur Árni Bergmann með þessar "upplýsingar":

> vestrænna fjölmiðla. Allar fréttir hafa verið miklu dauflegri af tíðindum innan Kambodju, landið mestan part lokað — og það litla sem spyrst ber vott um svo grimmdarlegan ofstopa í stjórnsýslu, að vinstrisinna, sem höfðu að sjálfsögðu haft mjög litlar mætur á gjörónýtri stjórn Lon Nols sem þar sat áður, þá hefur sett hljóða. Og það er reyndar eftirtektarvert, að þótt til Kambodíu megi sækja hentugt efni til niðrunar kommúnisma, þá

Ástæðan er augljós. Sovétríkin studdu ekki frelsisbaráttuna í Kambódíu. Þar af leiðandi er "frelsisvinurinn" Árni Bergmann reiðubúinn til þess að taka undir lygasuðu CIA. Það sem er gott fyrir heimsvaldasinnana í Kreml - það er gott fyrir Árna Bergmann. Hvaða vinstrisinna eru það sem hefur sett hljóða vegna frétta frá Kambódíu? Eiga lygarnar frá CIA að setja menn hljóða? Já - Þegar það þjónar Moskvu. Þetta er uppskrift Á. B.

Hilmar.

### ALLTAF ER FYLKINGIN SÖM VIÐ SIG.

Ástæða þess að kommúnistar samfylkja ekki við trotskýista er m.a. sú að þeir brjóta alltaf öll grundvallaratriði til að auglýsa sjálfa sig upp.

Útifundur námsmanna á Austurvelli sýndi þetta ljóslega. Þar voru námsmenn úr öllum framhaldsskólum að mótmæla kjaraskerðingu sem þeir hafa þurft að þola af hálfu ríkisvaldsins, og þar voru mættir menn með allskonar pólitískar skoðanir, og aðgerðirnar áttu alls ekki að bera neinn einn lit. En Fylkingin gat ekki á sér setið að vîðra fána 4 alþjóðasambandsins í óþökk allra annarra fundarmanna.

Námsmaður.

# Spillingin afhjúpuð

Sú alda allra handa afhjúpana sem hefur riðið yfir að undanförnu hefur sýnt verkalýðnum nokkrar skyndimyndir af innviðum kerfis borgarastéttarinnar. Enginn þeirra stjórnmálaflokka sem borgarastéttin gerir út til atkvæðasmölunar er laus við "spillinguna" (ég tel það ekki réttnefni þar sem hugtakið getur í skyn að grundvöllurinn sé góður). Viðbrögð talsmanna flokkanna hafa orðið til þess að sanna þetta. Viðbrögðin einkennast af gagnkvæmum hótunum um afhausun ef málin eru ekki látin niður falla. Framsóknarflokkurinn hefur af sérlega skýran hátt varið sig með þessari aðferð - greinar Alfreðs Þorsteinssonar um Vilmund Gylfason eru í þessum stíl.

Mér finnst ástæða til að vekja athygli á því sem Stéttabaráttan sagði í 1. tbl. 76 um íslensku atkvæðaflokkana:

> gjörvallt efnahags- og atvinnulíf á Íslandi er komið undir stjórn fárra, voldugra einokunarauðherra sem stjórna ljóst og leynt jafnt sjávarútvegi sem ferðamálum. Allir þræðirnir liggja um fárra hendur, bankakerfið sem og ráðuneytin eru undir yfirráðum einokunarauðvaldsins, og starfa beint að framkvæmd á veldi þeirra. Þrátt fyrir "lýðræðislegar" kosningar með vissu millibili verður

> ir að þeir hætta engu, þ.e. eru dyggir einokunarauðvaldinu. Æðstu toppar ASÍ koma einnig við sögu - sem mútuþegar og bitlingasnapar.
> engin breyting hér á - borgaralegu stjórnmálaflokkarnir eru einnig tæki til viðhalds á völdum einokunarauðvaldsins. Flokkakerfið sér um að til vegs og virðingar (þ.e. ívænleg framboð og embætti) komast aðeins þeir sem hafa svarið auðvaldsþjóðfélaginu ævarandi tryggð. Þar af leiðandi veljast í ráðuneytin og bankastjórnir forystumenn sem hafa á þúsund vegu beinan og óbeinan hag af þessu kerfi. Nægir að nefna menn eins og Geir Hallgrímsson (sem er einn af stórkapitalistum þessa lands) og Halldór E. (hann á a.m.k. verksmiðju). Bankastjórarnir eru ekki afskiptir í kaupi og kjörum eins og alþjóð veit. Því er einnig svo farið með ráðherrana, launin og fríðindin eru langt fyrir ofan afrakstur hins venjulega launamanns. Sumir af þessum æðstu embættismönnum einokunarauðvaldsins sameina það að vera bæði bankastjóri og ráðherra dæmi um það eru Einar Ágústsson (Samvinnubankinn) og Matthías Mathísen (Sparisjóður Hafnarfj.). Það sem þeir síðan bera úr býtum trygg-

Hafa þessi orð ekki hlotið staðfestingu að undanförnu, samanber stórlánið til Einars Ágústssonar.

Lesandi Stéttabaráttunnar frá upphafi.

# Útvarpsþáttur um Grænland

Laugardaginn 20/11 kl. 21 verður flutt dagskrá í ríkisútvarpinu um Grænland og grænlendinga. Dagskráin er í umsjón Guðmundar Þorsteinssonar Bendo Þorsteinssonar og Ólafs Ingólfssonar. Auk þeirra koma fram í þættinum þeir Einar Bragi rithöfundur og Ási í Bæ. Það er óhætt að segja að í þessum þætti verði tekið öðruvísi á málunum en áður í útvarpinu í þáttum um Grænland. Í stað þess að fjalla um eskimóa, hvítabirni og hundasleða er fjallað um dönsku nýlendustefnuna og myrkraverk hennar á Grænlandi. Í þættinum verður leikin grænlensk hljómlist af plötum, Einar Bragi rithöfundur mun lesa ljóðaþýðingar sínar eftir grænlenska ljóðskáldið Arkaluk Lynge, og Ási í Bæ mun lesa úr nýútkominni bók sinni Grænlandsdægur. Þessi þáttur er sá fyrri af tveim í umsjón Guðmundar og félaga. Í síðari þættinum verður fjallað um sjálfstæðisbaráttu grænlendinga og rætt við íslendinga sem kynni hafa haft af landi og þjóð. Við hvetjum alla sem áhuga hafa á þjóðfrelsisbaráttu grænlendinga gegn danskri nýlendukúgun að hlusta á þessa þætti. Sá fyrri verður Laugardaginn 20/11 kl. 21.